


IV. Winnipeg, Man. Nr. 2.

# Kaldeumenn hinir fornu.

Framhald.

LAND — RÚSTIR — LETUR.

Þá er fyrst að geta landsins sjálfs. Kaldea var áður kallað land það, er seinna var nefnt Mesopotamia; er það grískt orð, og þýðir: landið á millum fljótanna, nefnilega fljótanna Euphrats og Tigris. Það er austur af Gyðingalandi og liggur hin sýrlenzka eyðimörk á milli. Yfir landi þessu ráða nú Tyrkir. Í fornöld voru þau voldug ríki hvort á eftir öðru. Einkum voru það þé Assyriumenn og Babyloníumenn sem mest börðust um völdin. 606 árum fyrir Krist, var ríki Assyra kollvarpað og höfuðborg þeirra, Ninive, brotin og eyðilögð, höfðu konungar Assyra þá ráðið lögum og lofum í Euphratsdalnum um mörg hundruð ár. Voru Assyrar hermenn miklir og ríki þeirra stórt og öflugt mjög, eitthvert hið mesta í heimi á þeim tímum. Brutu þeir undir sig allar nágrannaþjóðir, réðust meira að segja vestur að Miðjarðarsjó og stóð ekki við þeim. En þá, 606, er borg þeirra var unnin af hinum fornu óvinum og þó frændum þeirra, Babylonarmönnum, hurfu þeir úr sögunni og náðu sér aldrei aftur. Borgir þeirra urðu að rústum, að stórum haugum, er menn á fáum hundruðum ára gleymdu hvað höfðu heitið og mentun þeirra lá þarna grafin í rústunum.

Þegar Xenophón, hinn gríski herforingi og rithöfundur, leiddi hersveit landa sinna heim aftur úr leiðangrinum móti Artaxerxes II., 200 árum seinna, þá fór hann hjá rústum þessum; stóðu þá veggir þeirra og mældi hann þá, og voru þeir á annari borginni 100 feta háir, 20 feta þykkir og sjö mílna langir, en undir allri borginni var

20 feta hár steingrunnur. Hjá borginni var pyramidi úr steini 100 feta þykkur og 200 feta hár. Nálægt dagleið frá rústum þessum kom hann að annari borg eða borgarrústum, því að alt var í eyði, og voru veggir hennar enn þá hærri. Sagði hann að borgir þessar hefðu áður heitið Larissa og Mešpila. Þetta voru rústirnar af höfuðborgum Assyra hinna fornu, og voru tvö hundruð ár liðin frá því að þær höfðu eyddar verið, en á þessum 200 árum höfðu menn svo gersamlega gleymt þessum fornu ríkjum, að nöfn borganna voru jafnvel fallin úr minni manna.

Svo liðu enn hundrað ár, þar til Alexander mikli var þar á ferðinni með Grikki að leggja undir sig Persaveldi. Fluttust þeir ofan Euphratsfljót á léttbygðum skipum, en til þess að komast áfram, urðu þeir oft að brjóta rammgjörva stíflugarða úr grjóti, er hlaðnir höfðu verið í fljótið til þess, að veita því upp á láglendið til frjóvgunar, og voru þeir þá að brjóta og eyða hinum síðustu leifum af menningu þjóða þeirra hinna fornu, er bygt höfðu dal þennan. Síðan hafa meira en 20 aldir liðið og rústirnar voru gleymdar orðnar. Nöfn þjóðanna þessara gömlu þektust varla. Eitt herhlaupið eftir annað lagði í eyði þennan fagra og frjósama dal, einhverja hina blómlegustu sveit á jörðu, land það er vér nú höfum elstar sögur og elstar venjur frá í öllum heimi. Borgirnar voru rifnar niður og múrsteinar úr höllum gömlu konunganna fluttir á úlföldum til að byggja aðrar borgir, — hreysi í stað halla.

Loks fóru Englendingar að gefa rústum þessum gaum. Það var fyrst 1820, að enskur maður, Rich að nafni, er var þar eystra, heyrði, að fundist hefðu myndir af mönnum og dýrum í einum þessum haug. Hann fór að reyna að ná í þetta, en gekk það illa og fékk lítið, en þó nóg til þess, að það vakti eftirtekt manna, og var gripum þeim safnað í bretska gripasafnið í Lundúnum. En þetta var nóg til þess, að vekja eftirtekt manna.

Botta kom næstur. Var hann franskur konsúll í Mossul 1842. Tók hann þegar að byrja á grefti í haugum tveim hjá Mossul, er Koyunjik nefnast, og er það borgin er Xenophon nefndi Mespila. Gekk honum illa framanaf, en loks komu verkamenn hans á vegg einn mikinn; lét hann grafa með honum og hreinsa og sá þá, að hann var kominn í höll eina mikla. Voru veggirnir alsettir rúnaletri hátt og lágt. Var þetta ein af höllum Assyriukonunga hinna fornu. En þá kunni enginn að lesa rúnir þessar. — Næstur honum kom Layard og svo hver af öðrum. Brátt fóru þeir að finna líkneskjur af fornum konungum, risavaxnar eins og væru þær af tröllum og er eigi ólíklegt að líkneskjur þessar hafi verið hin fyrsta orsök til

hugmyndar þeirrar hjá Gyðingum, að risar (synir Anaks) hafi bygt jörðina áður fyrri. Höfuðið af einni líkneskjunni er Layard fann, var nálægt 6 fet á hæð og urðu Arabar lafhræddir er þeir sáu það og sögðu að þarna væri Nimrod sjálfur, og flúðu sumir þeirra burtu. Þá fundu þeir og dýramyndir miklar af vængjuðum nautum með mannshöfði, vængjuðum ljónum með mannshöfði og voru þau vanalega við dyrnar á konungahöllunum (Cherubim) varðenglar hallanna. Þetta voru myndir af hinum helgu nautum og helgu ljónum Maganna. Þá vildi svo vel til einu sinni, er menn Layards voru að grafa, að þeir fundu eitt bókasafnið þeirra Assyríukonunganna. Voru það töflur úr leir, bakaðar og alþaktar myndum og letri beggja vegna. Þetta var bókhlaða Assturbanipals, er lifði um 650 fyrir Krist.

Þess skal nú minnast, að þá voru menn ekki farnir að rita með stafrofi því, er kent er við Rómverja og fyrst var farið að rita með um og eftir 600, og yfir höfuð hefir þá tæplega nokkurt rit verið til í heimi ritað með venjulegum stöfum. Þá voru Gyðingar ekki farnir að rita neinar bækur af biblíu sinni. Það var fyrst um 600 fyrir Krist, að Hilkia prestur *fann* lögmálsbókina, og Max Muller, sem betur en nokkur maður fyr og síðar, ber skynbragð á slíkt, segir, að það hafi fyrst verið eftir 600, sem biblíur þjóðanna hafi verið ritaðar upp á vanalegu máli, þó að sögurnar sjálfar eða brot af þeim séu eldri. Þá ritaði Confucius sögu Kínverja. Brahamar skrásettu þá hinar æfagömlu Vedabækur, eins og þær nú koma fyrir, Gyðingar fóru þá rita bækur ritningarinnar. Þá rituðu Zóróastersmenn upp Zend Avesta, en Grikkir kvæði Hómers.

Letur það, sem stóð á spjöldum þessum, er fundust í bókhlöðu Asshurbanipals, var ólíkt öllu letri, sem vér þekkjum; hefir það verið kallað fleygletur, eða fleygrúnir, því stafirnir eru gerðir af eintómum fleygmynduðum þríhyrningum. Spjöldin sjálf voru gerð af efni því (leir), er hvorki getur eyðilagst í eldi eða vatni og geta menn því sagt, að engin þjóð hafi látið eftir sig jafnóforgengileg minningarrit, sem þessi. Þarna gátu leirtöflurnar legið óskemdar í þúsundir ára. Þetta var líka heilmikið bókasafn. Töflurnar úr Ninivehbókasafninu eru 10,000 að tölu, og seinna hafa fundist önnur söfn, enn þá eldri en þetta. Aðalefnið, sem skráð var á bækur þessar, var trúarsiðir og trúmál önnur, goðafræði, sköpunarsaga o. s. frv., reikningslist og stjörnufræði, landafræði, upptalning á höfum, vötnum, fjöllum, fljótum, þjóðum og borgum. Þar voru og kaflar úr sögum konunganna. En þó að undarlegt þyki, þá fundu menn þar og málfræðisbækur, orðabækur, lestrarbækur fyrir skóla o. fl.

Letur það, er hinir seinni Assyrar rituðu, líktist því, er nú tíðkast á Persalandi, og mál þeirra var náskylt hebresku, og komust menn því upp á að lesa það. En svo var sumt af töflunum skráð á miklu eldra máli, máli hinna fornu íbúa Euphratsdalsins, Shumiro-Accada, er bygðu dalinn löngu áðar en Babylonar og Assyrar. Það mál skyldi enginn, og hefðu menn því aldrei getað vitað, hvað á þeim töfium stóð, ef að ekki hefði fundist í einu þessu bókasafni, regluleg málfræði, réttritunarreglur og orðabók yfir þetta forna mál og þýðingar á heilum köflum orðréttar. Geta menn nú orðið lesið letur þetta með viðlíka vissu og vér t. d. lesum bók á ensku máli.

---

## Fra Washington.

Ræða eftir fríþenkjarann

SAMUEL P. PUTNAM.

Haldin fyrir þingnefnd í Washington í Marz síðastl.. í málinu um að koma guði og biblíunni inn í stjórnarskrá Bandaríkja.

---

Í haust er leið var nefnd manna kosin af kyrkjumönnum í Bandaríkjunum, til að fara á fund þingmanna í Washington og reyna að fá umbót á stjórnarskrá ríkisins. Þessum mönnum hefir þótt hún óguðleg og vildu breyta henni.

Breytingin, sem þeir vildu koma inn í stjórnarskrána, var þessi: "játandi almáttugan guð sem hið æðsta vald og myndugleika í borgaralegum málum og drottinn vorn Jesú Krist sem stjórnara þjóðanna og hans opinberaða vilja sem æðsta úrskurð í borgaralegum málum."

Breytingin fór eins og sjá má fram á það, ekki einungis að setja guð inn í stjórnarskrána, heldur einnig biblíuna; að gera hana í rauninni hina æðstu löggjöf.

Þegar mál þetta kom fyrir þingið, var sett nefnd í það, eins og lög gera ráð fyrir, en hún kallaði fyrir sig nefnd manna þeirra, er voru flytjendur málsins. En þá kom og líka fram önnur nefnd, er send hafði verið af ýmsum flokkum manna, er með engu móti vildu að breyting þessi kæmist á. Í nefnd þeirri voru fríþenkjarar, unitarar, gyðingar, adventistar o. fl. Báðar nefndirnar voru látnar flytja mál sitt frammi fyrir þingnefndinni, og ræða þessi, er hér fer á eftir, er eftir fríþenkjarann Samuel P. Putnam.

Fyrst færir hann til orð þeirra Jeffersons, Madisons og Patrick Henry's, er sýna, að löggjafar þeir er sömdu stjórnarskrá Bandaríkjanna, hafa ætlað henni að ná jafnt yfir alla, trúmenn og trúlausa,

yfir menn af öllum skoðunum, öllum þjóðum. Svo heldur hann áfram og segir :

"Það er samkvæmt meginreglum þessum, að höfundar stjórnarskrár vorrar sleptu með öllu orðinu "guð" úr stjórnarskránni. Gerðu þeir það eftir nákvæma íhugun og langa yfirvegun. Og þetta voru þó menn, sem höfðu fult eins sterka trú á guði og nokkur annar kristinn maður. Þeir gerðu það engan vegin í því skyni, að óvirða hina æðstu veru, heldur til þess, að gera jafnan rétt allra manna í Bandaríkjunum, því að þar voru, þá sem nú, margir þeir, er ekki voru kristnir. Og þó að allir menn í Bandaríkjunum hefðu þá verið kristnir, þá mundu þeir þó hafa gert hið sama, því að þetta að setja guð inn í stjórnarskrána, hefði í öllum tilfellum hlotið að verða eyðileggjandi fyrir mannlegt frelsi. Rétturinn, að setja guð inn í stjórnarskrána, ber einnig með sér réttinn, að taka guð út úr henni, hvenær sem vera skal, og setja í staðinn hreinasta guðleysi, eða eitthvað, sem alveg er öfugt við kristna trú, og einnig þann rétt, að gera stjórnarskrána að verkfæri til þess, að svifta kristna menn borgararéttindum þeirra, eins og nú á að hafa hana til þess að svifta fríþenkjara sínum borgararéttindum. Höfundar stjórnarskrárinnar lýstu yfir og sýndu í verkinu, að þeir fylgdu meginreglum réttlætisins. Þeir sýndu í verkinu, að stjórnarskráin átti hvorki að verða verkfæri í hendi trúar eða vantrúar, heldur laus og fráskilin allri trú. Eigum vér nú að hverfa frá þessum fyrirtaks réttlátu og göfugu reglum ? Eigum vér að sigla út á haf óvissunnar og koma inn í stjórnarskrána deilum og þrætum hinna ótölulegu trúflokka mannkynsins ? Eigum vér að gera stjórnarskrána að vígvelli guðfræðislegra þráttana ? Höfum vér ekki lært nóg af sögunni til þess, að halda oss frá slíkum ófögnuði ? Eigum vér að færa vísirana aftur á bak á stundaklukku sögunnar og dagsetja "Declaration of Independence" lengst aftur í tíma, og gera bandalag milli þjóðveldis vors og hinna fornu harðstjóra ? Eigum vér að afnema mannréttindin og í stað þess að segja, "að allir menn séu skapaðir jafnir," að fara að gera þá yfirlýsingu, að til þess að geta haft nokkurn rétt sem stjórnin viðurkenni, þá þurfi menn að vera fæddir kristnir, eða hafa tekið kristna trú, eða segjast vera kristnir, hvort sem þeir eru það eða ekki.

Þetta er spurningin sem liggur fyrir. Eigum vér að fylgja hinum göfugu dæmum þeirra Washingtons, Franklins, Jeffersons og Madisons, eða eigum vér að kasta frá oss og hafna hinum skörpustu og vandlegast hugsuðu dómsályktunum þeirra, og leiða í lög hina

spiltu og hættulegu stjórnmálastefnu einveldis þess, sem þeir risu öndverðir upp á móti með svo mikilli frægð og frama?

Vér skulum nú fljotlega virða fyrir oss eðli ríkisins og eðli trúarinnar, til þess að geta fengið ljósa hugmynd um hinar djúpu og óhrekjanlegu ástæður, er vöktu fyrir höfundum stjórnarskrárinnar. Munum vér þá sjá, að ríki og trú hljóta ætíð að vera gersamlega aðskilin; vér munum þá sjá, að sameining þeirra skapar óttalegt, yfirgnæfanlegt harðstjórnarvald, sem öll saga mannkynsins hefir sýnt og sannað, að verður grimdarfult og eyðileggjandi afl í mannlegu félagi.

Hvað er ríkið?

Washington segir að það sé afl en ekki sannfæring. Og þessa lýsing munum vér allir álíta rétta.

Ríkið er afl, hið sameinaða líkamlega afl mannfélagsins. Á bak við hvert eitt lagaboð, á bak við hvern einn dóm, á bak við hvert eitt löggjafarþing er byssustingurinn. Það er með öðrum orðum líkamlegt (physiskt) afl. Lögin ráðleggja ekki, þau skipa og neyða. Vér getum ekki valið um, hvort vér eigum að hlýðnast eða ekki. Vér hljótum að hlýða. Ef að vér óhlýðnumst, þá hljótum vér að taka hegning fyrir, ekki siðferðislega (moralska) hegningu, heldur líkamlega. — Af þessu geta menn séð, að ríkið er voðalegt afl í sjálfu sér. Þetta afl þarf því vanalega að takmarkast, því að það getur gert ósegjanlega mikið ilt, ef að því er ranglega beitt.

Tilgangurinn með þetta voðalega feiknaafl segir Patrick Henry að sé sá, að varðveita frelsið. Hlutverk ríkisins er það, að vernda mannréttindin. Með öðru móti er ómögulegt að réttlæta það. Tilgangur þess er sá, að hindra og koma í veg fyrir glæpi um þvert og endilangt ríkið. Glæpir eru brot á réttindum einstaklingsins. Stjórnin er því stofnuð til þess, að vernda og viðhalda réttindum manna, en ekki að afnema þau. Stjórnin er ekki yfir þjóðinni svo að hún sé þjóðinni óháð, heldur er hún verkfæri í höndum þjóðarinnar, til góðs fyrir alla. Hún er gjörð af þjóðinni, fyrir þjóðina og handa þjóðinni. Ríkið er því afl — og sem líkamlegt afl getur það að eins gert það eitt, sem lýtur að líkamlegu afli. Það getur heft og hamlað líkamlegu böli, en það getur ekki haft neitt andlegt starfsvið. Það stendur því á sama hvað eða hvílík trúin er, jafnvel þótt hún væri hið upplýstasta afl og mesta speki mannlegrar sálar, þá gæti hún ekki sameinast við ríkið.

En hvað er trú?

Trú er tilfinning. Trúin er ekki barn skynseminnar eða vísindanna, heldur mannlegra tilfinninga. Ef að maðurinn hefði full-

komna þekkingu, þá gæti hann ekki verið trúaður. Trúin er fremur öllu öðru tilfinning. Hugsun getur verið með trúnni, getur upplýst hana og gert hana göfugri, en ekki skapað hana. Trúin kemur frá hjartanu en ekki höfðinu. Ég hygg, að enginn muni hafa á móti þessu. Þetta er svo ljóst í allri sögu mannkynsins. Trúin er ástríða, trúmaðurinn er hrífinn—innblásinn, ef menn vilja kalla það svo, en það eru tilfinningarnar, sem eru innblásnar, en ekki vitið.

Gjörið því trúna hreina og veglega, svo ljómandi sem þér viljið og getið, í listunum, í skáldskapnum, í lífinu — en einlægt verður hún þó tilfinning.

En nú sjá menn það, að eftir eðli sínu er tilfinningin,—sem tilfinning eingöngu — blind, hlutdræg og gjörræðisfull. Hið forna máltæki segir, að "ástin sé blind." Þetta er reynsla mannanna. Hvað er fegurra og yndislegra, en ástin móðurinnar til barnsins síns? Fyrir þetta barn sitt vill hún fúslega og gersamlega fórnfæra sjálfri sér. En hún vill einnig fúslega fórnfæra öðrum fyrir það, ef að hún fer eingöngu eftir tilfinningum sínum. Hiti og ákafi ástar hennar blindar hana fyrir öllu öðru,—fyrir velferð annara, fyrir sanngirnis og réttarkröfum þeirra. Það þarf ekki að skýra þetta betur. Eðli og einkenni allrar tilfinningar, hvort heldur það er trú eða ást, er hlutdrægni — það að vera blindur fyrir öllu öðru en því, sem tilfinningin gengur út á. Allir heimspekingar halda því fastlega fram — og guðfræðingar líka— að tilfinningin verði að stjórnast af skynseminni. Hún verður að hafa vitið fyrir leiðtega. Menn mega ekki treysta tilfinningum sínum, heldur dómgreindinni. Móðirin má ekki ætíð gera það sem ástin býður henni.

Ef að trúin á að hafa góð áhrif á manninn þá verður hún að vera sameinuð skynseminni, vísindunum, mentun, upplýsing og siðgæði. Hinum blindu hvötum trúarinnar má ómögulega gefa lausan tauminn.

Hvað er hún þá þessi sameining ríkis og trúar, eftir þessum óhagganlegu forsetningum, nefnilega að ríkið sé afl en trúin tilfinning?

Það er ekkert annað en sameining blindrar tilfinningar og dýrslegs afls. Þetta er það og ekkert annað, og þessi sameining hefir á liðnum öldum gert sögu mannkynsins að sögu blóðs og skelfinga. Hvenær sem trúin hefir brugðið sverðinu, hefir hún deytt milliónir manna. Því að trúin er vafalaust hin sterkasta ástríða manna, þegar hún gengur í bandalag við líkamlegt afl og notar það sér til eflingar. Hún verður sem hvirfilbylur, sem eyðileggur alt hvað fyrir er. Er það vilji vor, að rita þær upp aftur þessar voðalegu blaðsíð-

ur í sögu mannkynsins? Eigum vér í dag að fá trúnni sverðið í hendur? Eigum vér að fastna hana dýrslegu eðli, í stað skynsemi og vísindum? En þetta er það sem nýmælið (breytingin) fer fram á. Það heimtar gamla siðinn frá tímum krossferðanna, miðaldanna, páfakyrkjunnar. Það heimtar píningarskrúfuna og bálið. Þetta er þýðing nýmælisins, það getur ekki þýtt annað. Ég hefi skýrt eðli og þýðingu ríkis og trúar, og það er enginn efi á, að sú skýring er rétt. Þar sem því nýmælið fer ekki fram á sameining afls og skynsemi, ekki fram á sameining tilfinningar og skynsemi, heldur sameining ríkis og trúar, þá miðar það að hinni allra verstu samblöndun sem nokkurt mannlegt vit getur hugsað sér, — sameining aflsins og tilfinningarinnar.

Thómas Paine, segir, að ríkið sé óhjákvæmilegt böl. En hvort sem það er böl eða ekki, þá er það þó vissulega voðalegt vald. Og þó vill nýmælið auka við þetta voðalega vald — hið sameinaða líkamlega afl sjötíu millíóna manna! Auka við það ástríðum, fordómum og blindum tilfinningum trúarinnar, og þannig óútreiknanlega margfalda möguleikana til þess að gera ilt, Það er betra, að hafa auga á og takmarka afl stjórnarinnar, en að auka það, og allra síst auka það með því, að gefa ástríðum manna lausan tauminn. Sumir menn ætla, að trúin eftir eðli sínu sé vond; en hvort hún eftir eðli sínu er góð eða vond, er ekki umtalsefni nú, en það eitt er víst, að hún verður voðalegt feiknaböl, ef hún gengur í bandalag við aflið. Það er sama hversu góð trúin er í byrjuninni, þetta vanhelga samband eitrar hana og gerir hana að bölvun mannfélagsins. I nafni trúarinnar sjálfrar skora ég á yður, sökum hennar eigin þroskunar, sökum alls hins góða er hún getur til leiðar komið, leggið hana ekki í bandalag við aflið; fáið henni ekki sverðið í hendur; látið hana ekki hafa nauðung að vopni og verju; en látið hana draga að sér lífsloft frelsisins; látið hana nærast af vísindunum; látið hana draga saman handa sér allar hinar bestu og blessunarríkustu hugsanir aldanna. Látið henni í té listina og sönginn og skáldskapinn. Fáið henni dýrðlegar dómkyrkjur og ef hún vill altari sett demöntum og tignarlega guðsþjónustu. Látið hana hafa alt það, sem þjóðin vill veita af frjálsum, örlátum vilja, og þá getur hún verið engill fyrir mannfélagið. Hún getur huggað og hughreyst, hún getur varpað björtu ljósi á leiðir millíóna manna. En í öllum bænum fáið henni ekki í hendur sverðið og fallbyssuna; látið hana ekki geta blásið frá sér eldi og þrumum. Látið hana hafa stjörnuna frá Betlehem, ef hún vill, en ekki stjörnu og kylfu lögreglumannanna. Ef að menn vilja hafa trú, þá látið þá hafa hana. Látið menn kjósa sér hana af

ást til hennar, en segið ekki við nokkurn mann, konu eða barn í þessu víðlenda þjóðríki Ameríku: "Þú skalt vera trúaður, þú skalt vera kristinn." Feður þessa ágæta þjóðveldis styðja oss í þessari baráttu og sókn fyrir frelsi og rétti. Þeir sömdu stjórnarskrána eins og hún er, og höfðu fyrir augum sér ástæður þær, er ég þegar hefi talið. Þeir voru allir trúmenn í djúpum skilningi og einmitt þessi dýft trúar þeirra, og þessi hin rótgróna föðurlandsást blés þeim í brjóst, að semja skrá þá, er ber ljómann af öllu öðru í annálum mannkynsins. "Ríkið er afl," sagði Washington. Sökum þess getur ekkert félag verið milli ríkis og trúar; trúin getur í sjálfu sér verið fögur, en hún verður að blómgast í lofti frelsisins. "Það má leiða hana með skynsemi og sannfæring en ekki með afli og ofbeldi," segir í Virginiu "Declaration of Rights." Þetta er hið dularfulla ágæti hins Ameríkanska þjóðveldis. Þjóðveldið hefir látið þjóðina sjálfa algerlega einráða um trúna. Þar er engin nauðung.

Höldum fast við þessar meginreglur í dag. Sagan og skynsemin krefjast þess. Hér og hvergi annarstaðar liggur vegur friðarins; bróðernis mannanna og hins algilda réttlætis.

En það eru og til aðrar sterkar ástæður á móti því, að gera að lögum nýmæli þetta. Það er ekki nóg með það, að það vill sameina trú og ríki, heldur stefnir það og að því, að setja trúnni skorður og nauðga mönnum til einnar ákveðinnar trúar, til trúar minni hluta mannkynsins. Það er ekki nóg með það, að það æsir upp trúmennina á móti vantrúarmönnunum, sem er fullilt, en það myndi líka kveykja deilur og missætti milli trúmannanna sjálfra og þannig að lokum valda trúarstríði.

Nýmæli þetta myndi ekki einungis bæta trúnni inn í stjórnarskrána, heldur liggur það í hlutarins eðli, að þar fylgdi með skýring (definition) trúarinnar eða með öðrum orðum trúarjátning. En stjórnarskráin á ekki og má ekki hafa inni að halda neinar óvissar pólitiskar kenningar, heldur kenningar þær, sem reynsla og vit mannkynsins hafa fyllilega sannað og staðfest. Væri það viturlegt, að setja tollfrelsi eða tollvernd inn í stjórnarskrána, á meðan þetta eru skoðanir, að vísu alment viðurkendar, en langt frá því að vera sannaðar? Ef að þetta væri viturlegt með tilliti til óvissra pólitiskra kenninga, þá er það sannarlega óviturlegt og hættulegt þegar ræða er um óvissar guðfræðislegar kenningar.

Nýmæli þetta vill koma guði inn í stjórnarskrána. En nú vitum vér, að guð er ofar mannlegum skilningi. Menn trúa á hann en þekkja hann ekki. Þetta játa allir hinir skarpvitrustu menn heimsins, allir heimspekingar nútímans. Sir William Hamilton, sem er

einhver hinn djúpskygnasti spekingur vorra tíma, og rétttrúnaðarmaður, játar það, að eftir eðli mannssálarinnar, sé það ómögulegt, að sýna og sanna tilveru ótakmarkaðrar veru, eða með öðrum orðum tilveru guðs, því að sjálf hugsunin um það er takmörkun. Að hugsa er að takmarka, að binda við eitthvað. Þar af leiðir það, að hvað sem maðurinn hugsar um er takmarkað og skilyrðum bundið. Guð er því beinlínis óhugsanlegur. En eigum vér nú að setja það inn í stjórnarskrána, sem er óhugsanlegt? Herbert Spencer segir, að hið ótakmarkaða, óendanlega, sé óþekkjanlegt. Eigum vér nú að setja hið óþekkjanlega inn í stjórnarskrána? Allir hinir mestu visindamenn heimsins eru agnostiskir (þekkja ekki) hvað snertir guðdómlega og yfirnáttúrlega veru. Þeir hvorki játa eða neita tilveru guðs. Það er hlutur sem þeir segjast ekkert vita um. A nú stjórnarskráin, sem í eðli sínu er pólitisk, að takast á hendur að ákveða og úrskurða jafn mikilvæga guðfræðisspurningu, spurningu, sem heimspekingar allra hinna liðnu alda aldrei hafa getað orðið ásáttir um? Á stjórnarskráin að hætta sér út á hinn ýfða sæ trúardeilanna? Á stjórnarskráin að leggja meiri áherslu á trú en þekkingu, meiri áherslu á trú en sannleika? Hvílík fásinna er ekki það að setja það inn í stjórnarskrána, sem vér þekkjum ekkert til? Stjórnin er mynduð í verklegum tilgangi, til þess að ráða málum þessa heims. Ætti stjórnarskráin þá ekki að halda sér við reynsluna og mannlega skynsemi? Getum vér ekki séð, hve viturlegt það var af höfundum stjórnarskrárinnar, að láta allar trúar og guðfræðisspurningar vera komnar undir dómi einstaklinganna? Hver getur leyft öðrum að úrskurða fyrir aðra en sjálfa sig svo mikilvægar spurningar? Mönnum kemur ekki saman um tilveru guðs, og mönnum kemur ekki saman um eðli guðs þótt menn kannist við tilveru hans. En þegar óvissan í þessu er jafnmikil og hún er, þá er líka best að láta hvern mann ráða fyrir sjálfan sig, trúa hverju, sem hann vill og samviska hans hans segir honum. En hafið ekki stjórnarskrána til þess, að neyða upp á menn trú þeirri, sem mannlegri skynsemi er ómögulegt að sanna. Stjórnarskráin ætti að hafa það eitt inni að halda, sem er skírt og ljóst og gagnlegt og hægt að framkvæma í verkinu. Hún er gerð af mönnum handa mönnum í sambandi þeirra hver við annan, og því er best að hún fari ekki út yfir það, sem maðurinn í sannleika þekkir. Látið hana vera verkfæri mannlegrar þekkingar, en ekki yfirlýsing mannlegrar fávisku. Látið hana ekki slá því föstu, sem ómögulegt er að sanna.

Þetta nýmæli vill koma biblíunni inn í stjórnarskrána sem uppsprettu alls myndugleika. En hvað er hún þessi biblía? Hver veit

nokkuð um uppruna hennar, hve nær hún var rituð eða hvar hún var rituð eða af hvaða orsökum? Kristnum fræðimönnum kemur ekki saman um þetta og verða nauðugir viljugir að játa vanþekkingu sína. Eigum vér að viðurkenna alla biblíuna sem guðdómlega innblásna, eða einhvern hluta hennar, og ef svo, hvaða hluta? Ef að vér játum alla biblíuna guðdómlega, þá játum vér guðdómlega bók, sem telur réttmæt blóðug stríð, þræidóm, fjölkvæni, þjófnað, rán, og aðra glæpi og lesti. Vér tökum þá sem æðstu reglu fyrir trú manna og lífi bók, sem telur réttmæt morð saklausra kvenna og barna. Vér tökum þá sem guðdómlega sanna, bók sem kennir galdra, djöfulæði og aðra hjátrú og hindurvitni. Vér tökum sem guðdómlega sanna, bók, sem hinir vitrustu kristnu fræðimenn segja að sé langt frá því að vera óskeikanleg,—bók sem augsýnilega fer víða rangt í sögu, landafræði og náttúrufræði. Er það mögulegt, að á þessum upplýstu tímum skuli þessu samblandi af fræðum sumum góðum, sumum vondum og sumum gagnslausum vera skipað hásæti í stjórnarskránni sem uppsprettu allra laga og réttinda; þessa bók, er frumritið af er glatað og týnt fyrir öldum síðan; þessa bók, í hverrar nýjustu útgáfu eru 250,000 villur, missagnir og ósamhljóða staðir. Marteinn Lúther kastaði 5 bókum biblíunnar. Eigum vér að setja þá aðgreining inn í stjórnarskrána? Eða eigum vér að taka alt samsafn bóka biblíunnar, sem vér höfum tekið við af fákunnandi klerkalýð? Eigum vér að setja vísindalegar rannsóknir um biblíuna inn í stjórnarskrána eða hafna þeim? Þegar vér förum að tala um að setja biblíuna inn í stjórnarskrána, þá koma upp þúsund spurningar. Menn hljóta vandlega að gjöra sér grein fyrir því, hvað af henni sé ekta og hvað óekta og gjöra út um það. Menn hljóta að gjör út um innblástur hennar og óskeikanleika. Ef að sú verður niðurstaðan, að nokkur hluti biblíunnar aðeins sé guðdómlega innblásinn, hvernig eiga menn þá að skilja það í sundur? Og hverjir eiga að gjöra það? og eftir hvaða reglum á að fara? Hver hinna 200 kristnu trúflokka í landi þessu á að hafa úrskurðaratkvæðið. Hvílíkar látlausar þrætur koma ekki upp, er um þetta skal tala. Hve margar og djúpar eru eigi spurningar þær, er gjöra verður út um fyrst, í bókmentunum, í sögunni og í vísindunum áður en menn geta komið sér saman um nokkurn sameiginlegan grundvöll. Það er ekki hægt, að setja biblíuna inn í stjórnarskrána á meðan að kristnum mönnum kemur ekki saman um, hvað sé biblía. Þó að ég sleppi alveg að tala um hinn ótölulega fjölda allra þeirra, er als eigi kannast við guðdómleika biblíunnar i neinu tilliti. En ef að setja á biblíuna inn í stjórnarskrána, þá viljum vér fá að vita,

hvaða biblía það er, og hvað hún kennir. En fyrst að um biblíuna ræður öll þessi óvissa, fyrst að allar þessar þráttanir og deilur hanga sem þrumuský yfir henni, fyrst að menn vita ekki um uppruna hennar, fyrst að það er augljóst, að hún lýsir glæpi ýmsa réttmæta, fyrst að hún er öfug við vísindin, fyrst að í henni eru þeir kaflar, sem að menn myndu skammast sín fyrir að lesa upp fyrir nefnd þessari, fyrst að henni getur ekki borið saman við sjálfa sig, þá skulum vér einmitt láta biblíuna vera þar, sem höfundar stjórnarskrárinnar settu hana, í höndum þjóðarinnar, svo að hver gæti lesið hana og dæmt um hana, sett útá hana að vild, svo að hver og einn væri með öllu sjálfráður, hvernig hann skoðaði hana og hvernig hann notaði hana. Vissulega getur engin aðferð verið viturlegri en þessi. Hvað svo sem biblían er, þá á hún aldrei að fá sverðið í hönd. Og ef að frjáls og óháð skynsemi manna ekki getur sameinast við hana, því fyr, sem hún er lögð á hilluna, því betur. En að neyða henni upp á menn með lögum eru voðaleg rangindi. Það myndi slá dyrunum opnum fyrir sífeldum þrætum og deilum.

(Meira.)

---

## Gildi Gamlatestamentisins.

(Athugasemd við "Aldamót" 1893).

Framhald.

En ég get ekki skilið mig frá þessum kapítula, fyrst ég á annað borð er kominn út í hann. Þar stendur í 12. versi: "Ef þú heyrir í einhverjum þeim borgum, sem drottinn þinn guð hefir gefið þér til íbúðar, að menn segja: á meðal þín eru upp komnir nokkrir Belíals synir sem hafa vilt bæarbúana og sagt: látum oss fara og þjóna annarlegum guðum, sem þér þekkið ekki til, þá skaltu innvirðulega rannsaka og rekast í þessu, og ef það reynist satt, að sú svívirðing hafi verið framin meðal yðar, þá skaltu slá borgarmennina í þeim bæ með sverðseggjum og leggja bann á þá með öllu, sem þar er inni, einnig fénaði þeirra. Alt herfangið úr þeirri borg skaltu bera fram á mitt strætið, og brenna svo í eldi ása ut borginni sjálfri til heiðurs við Drottinn, þinn guð, svo að borgin verði að ævarandi moldarrúst og byggist aldrei síðan. Lát ekkert af hinu bannfærða loða þér við hendur, svo að Drottinn megi snúa frá þér sinni heyftarreiði, vera þér miskunnsamur og líknsamur og margfalda þig eins og hann heitstrengdi forfeðrum þínum. Þú hefir heyrt raustu Drottins þíns Guðs, að þú skyldir halda öll hans boð-

orð, sem eg legg fyrir þig í dsg, svo að þú mættis gjöra það, sem rétt er fyrir hans augum".

Hér er það alt saman komið, hegningin fyrir vantrúna, tilgangurinn með hana, aðferðin þessi sóðalega grimdarlega; í hvers nafni það er gjört, og svo er bundið enda á alt þetta, á öll þessi fólskuverk með því að þetta, einmitt verstu verkin, séu rétt fyrir guðs augum.

Gyðingar eiga að deyða alla þá, sem ekki vilja dýrka hann, þenna Gyðinga guð, og ekki einungis þessa menn. sem þannig hugsa, heldur alla bæjarmenn, konur sem karla,, unga sem gamla, ekki nóg með það, heldur eiga þeir að deyða allann fénað þeirra, engin skepna sem þeir eiga má lifa, svo er hatrið og grimdin mikil. Og borgin má ekki standa. Gyðingar eiga að rífa hana niður til grunna. Það er eins og þeir hafi hugsað sér að skapari himnanna mundi þykkheyrður við kveinstöfum og angistarópi barnanna ungu og kvennanna, sem slátrað var. Er ekkí þetta voðalegt? og þetta alt eiga Gyðingar að gjöra til "heiðurs við Drottinn", þetta eru verk sem höfundur Móseslaga telur að heiðri. Guð!! þetta samþykkja þeir allir, sem viðurkenna bókstaflegan innblástur. Þetta samþykkja þeir svo hjartanlega, sem segja að hér, einnig í þessu lagaboði sýni sig hinn "þríþætti rauði þráður heilagleika réttlætis og kærleika". Þetta segir raustin drottins Gyðingum. En nú kunna sumir, sem ekki vilja kynna sér Gyðingasöguna, að hugsa, að þessu lagaboði hafi aldrei verið framfylgt, en það er öðru nær. Gyðingar voru hlýðnir þessum og öðrum eins boðorðum, enda höfðu þeir hótunina, að hver sem ekki hlýddi hverju hinu minsta boðorði, hann skyldi "bölvaður" vera. Þeir fóru þannig með hverja borgina á fætur annari, er þeir komu í Gyðingaland. Þeir drápu menn og fé; þeir brendu og brældu; þeir voru svo heiftugir, að þeir létu ekki stein yfir steini standa í sumum borgum er þeir unnu. Þeir voru sannir gjöreyðendur, og aldrei hefir verri gjöreyðendaflokkur vaðið í blóði manna og dýra, rænt og ruplað brent og stolið en þessi. Aldrei hefir verri og sóðalegri gjöreyðendakenning verið flutt í heiminum, en einmitt þetta og þessu lík boðorð Mósesar. Enda var þetta ekki svo ólíklegt, þetta var þrælaflokkur, með þrælslegum hugmyndum; það var ekki mannúð eða mildi, sem bjó í hjörtum þeim, heldur hefnd og heift og ofboðsleg grimd, og forkólfar þeirra Móses og aðrir voru nógu klókir til þess, að sjá það, að þeir myndu best geta fengið þá til þess, að fremja þessi hryllilegu verk með því, að segja þeim, að þetta væri boð og skipun hins lifanda guðs, segja þeim, að með þessu sýndu þeir sæmd og heiður

guði þeim, er þeir dýrkuðu. Þetta var öflugasta og vissasta meðalið til þess, að snúa frá þeim heiftarreiði Drottins!! Myndina af guði, sem hefir vakað fyrir Gyðingum, fyrir prestunum, höfðingjunum, spámönnnnum, getum vér vel hugsað oss, hún hefir ekki verið fögur. Það er reiðin og heiftin í almætti sínu. Er þetta nú guðsmynd sú, sem búa á í hjörtum hinna rétttrúuðu, sem býr í hjörtum prestanna, sem á að fylla þá huggunar cg vonar? Þá kenni ég í brjósti um þá. Og vér sem höfum kastað henni burt frá oss með fyrirlitningu og viðbjóð, þessari hugmynd, vér þökkum guði fyrir, að það opnuðust á oss augun, að vér fórum að skoða og rannsaka; hvort þetta væri nú virkilega satt eða ekki, því að það var eins og létti af oss einhverju óttalegu fargi, einhverri martröð, þegar vér loksins losnuðum við hana.

Höf. fyrirlestursins segir að þessi vantrú, sem dauðahegningin er við lögð sé synd á móti heilagleika Drottins. Ég sleppi að tala um það, að það er alveg ósannað, að vantrú sé synd á móti heilagleika guðs. En ef að menn líta með nokkurri sanngirni, með nokkurri réttlœtistilfinningu á þetta, er það þá ekki miklu meiri synd á móti heilagleik drottins þetta, sem Móses býður þeim að fremja, að deyða og myrða. Það er sannarlega tími til kominn, að fara að endurskoða hana þessa stjórnarskrá, ef svo er, að hún skyldi enn þá vera í gildi í hinni alla kristilegustu, rétttrúuðu, sáluhjálplegu kyrkju og ég vildi óska að þeir færu að gera breytingar við hana.

---

## Spurning.

Af dómi "Sameiningarinnar", sýnist mér sem íslenzku lútersku prestarnir hér, lesi enga bók, né blað. eins rækilega og "Dagsbrún". Því vil ég gegnum hana, mér til uppfræðingar spyrja hina nýnefndu presta: Hvernig á ég að skilja greinina í barnalærdómi hra. Helga Hálfdánarsonar. Þessa: "Áður en heimurinn var til, var ekkert efni til, er hann yrði skapaður af. Guð hefur því skapað heiminn af engu, það er: með almætti sínu látið það verða til, er als eigi var áður til"? Því spyr ég: Var þá guð í engu um ómælanlega langan tíma, þar til að hann skapaði tilveruna fyrir 5,863 árum, er hann gat sest á himininn og sett fæturna á jörðina, sjá (Matt. 5.) og af guðfræðinni að álykta aldrei staðið upp síðan hann persónulega hætti að opinbera sig fyrir vinum sínum? Ritningin segir "guð skapaði ljósið, og hann sá að það var gott". Fagnaði yfir að

myrkrið var nú horfið að hálfu, því enn kom nótt eftir dag. Af þessu má sjá að engin vera hefir átt við aðra eins erviðleika að stríða sem guð, að vera í svo svörtu myrkri, sem engin hugsun getur gripið, því síður orð útmálað, og finna enga staðfestu fyrir sig í svo voðalega engu, sem engin frumögn var til í. En guðfræðin á eftir að sýna, hvað kom til að guð fór ekki að skapa fyr en hún segir. Ég býst við að hún viti það eins og alla guðs eiginlegleika, sem hún svo djarflega lýsir, eins og hún hafi búið hann til.

Ég veit að hinir fyrnefndu prestar telja sig eitt með Kristi í guði, því vona ég að þeir hjálpi mér upp úr fáfræði minni með ljósum upplýsingum.

Mountain, N. D., 26. Marz 1896.

*Jónas Kortson.*

---

# Ýmislegt.

Djöfullinn fór í svínin forðum, en nú fór Gabriel erki engill í jómfrú Conesdon.

---

Í Parísarborg er nú alt í uppnámi útaf stúlku einni, Conesdon að nafni. Hún er ung stúlka lagleg af fátækum ættum, en segist hafa fengið vitrun frá englinum Gabriel. Segist hún einusinni heima hjá foreldrum sínum bafa verið fremur döpur í bragði og gruflandi, en alt í einu hafi sér brugið undarlega. Hafi hún fundið titring mikinn og þó inndælan og ofan af himni niðursté einhver undarlegur kraftur og fór inn í líkama hennar. Kvaðst hann vera erki engillinn Gabriel, og á sömu stundinni tók hún að tala eitt og annað, er hún gleymdi að vörmu spori.

Upp frá þessu hefir hún verið að spá af mikilli andagift, og spáir um einlæg stríð og blóðsúthellingar. Segir Gabriel henni það alt saman. En skríllinn og kaþólsku klerkarnir þyrpast utan um hús hennar til þess að reyna að ná tali af eða fá að líta þessa "sælu meðal kvenna", meyna sem Gabriel býr í. Lögreglan ræður ekki við neitt og stöðugt er þyrpingin svo mikil utan um hús hennar, að við troðningi liggur. Blöðin eru full af umtali um hana. Segir hún að Spánn og Bandaríkin muni bráðlega lenda í blóðugu stríði, svo þar næst Bandaríkin og England og muni stríðið gjöra löndin nær öreigi, en loks verði England að leita sætta. — Hálfundarlegt að mentunin skuli ekki vera komin lengra áleiðis en svo, að menn skuli leggja nokkurn trúnað á annað eins og þetta. En hér sér

maður sem víðar, að þegar trúin er ekki bundin neitt við skynsemina, þá eru ekki þær öfgar til, að menn ekki trúi þeim. Hvað er þetta meira, en hvalsagan hans Jónasar gamla, eða yfirnáttúrlegur getnaður Krists, eða dauður guð. Þegar skynsemin er troðin niður í saurinn, þá dansar trúin dátt við söng og hörpuslátt. En skríllinn og klerkarnir, sem aldrei vilja hugsa, en öllu trúa, drúpa höfði og biðja stynjandi um visku, þegar þeir einmitt eru að kasta frá sér vitinu, um þekkingu í sömu andránni og þeir hafna allri þekkingu, um innblástur heimskunnar og vanþekkingarinnar, því að þeir hafa afneitað og afneita, í því að þeir eru að biðja um þetta, innblástri viskunnar og þekkingarinnar, sem guð hefir gefið þeim í sálir þeirra. Og múgurinn hrópar hósianna, hann er svo hrifinn af heimskunni og trúnni á hindurvitni og hið yfirnátturlega. Og múgurinn grætur af fögnuði yfir heimskunni, hún er honum svo náttúrleg. Þá græða þeir tvent; þeir þurfa ekki að hugsa og þeir geta steyft óvinum sínum til vítis, en setið sjálfir með Abraham Ísak og Jakob í vígskörðum himnaríkis og horft á sálirnar kveljast í pyttinum neðra og hlustað á neyðaróp bræðra sinna og systra, er það stígur að hásæti himnakonungsins og bergmálar í borgarveggjum hinnar nýju Jerúsalem-

---

Hér og hvar um heiminn er við og við að bóla á því, að guð sjálfur á þessum síðustu og verstu dögum sé að taka á sig mannlegt gervi, eður íklæðast mannlegu holdi. Nýlega er nú dáinn maður einn í Parísarborg, að nafni: Guillaume Monol. Varð hann 95 ára gamall. Hanu trúði því fastlega, að hann væri Jesús Kristur og fékk áhangendur nærri 500 að tölu. Meðal annars trúði hann því, að hann sjálfur væri ódauðlegur í holdinu og því trúðu einnig áhangendur hans; trúðu því að hann gæti ekki dáið. En þó fór svo loksins, að hann hrökk upp af, en félagar og trúbræður hans sátu sumir eftir með sviknar vonir, en sumir börðu höfðinu við steininn og sögðu að hann hefði aldrei dáið en gengið inn í dýrð föðursins á himnum eins og þegar Elias keyrði á vagninum til himna forðum daga!!

---

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : Magnús J. Skaptason.
648 William Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : Magnús Pétursson.
709 Alexander Ave. — Box 305.

Heimskringla Prtg. & Publ. Co.